# Skóla-Hátíd

í minníngu

Fædíngar-dags

vors allranádugasta Konúngs

# Fridriks Sjötta,

þann 28da Janúarii 1829.

er haldin verdur þann 1ta Febr. 1829,

bodud af

Kénnurum Bessastada Skóla.



Fyrsta og önnur bók af Homeri Odyssea.

á Íslenzku útlögd af

Sveinbirni Egilssyni.





Videyar Klaustri, 1829.
Prentadar af Fakt. og Bókþryckjara Schagfjord,
á kostnad Bessastada Skóla.

# Odysseifs-Drápa.

## Inntak Odysseifs-Drápu.

Odysseifur Laertesson, Kóngur í Ithøku, var med ødrum Grikkjum í Trójumanna stridi, og vard med hans rádum borgin seinast unnin (tré-hestrinn). En á leidinni frá Trójulandi fékk hann mikid volk og hrakníuga, og lidu 10 ár frá því borgin var unnin, til þess hann komst heim aptur til Ithøku. A medan gérdust ýmsir høfdingjar til, á Ithøku og nálægum eyum, ad bidja Penelopu, konu Odysseifs; en hún var trú manni sínum, og tók ekki brátt á þessu, þordi þó ekki ad neita bidlunum, en lét vid þá liklega. Hún tók þad til bragds, ad hún hafdi vef uppi um daga, og létst mundi eiga einhvern af bidlunum, þá hún hefdi lokid vid vefinn; en er nótt var komin, rakti hún þad upp, sem hún vaf á daginn, og gékk svo lengi. En bidlarnir settust upp hjá henni, og vard hún ad halda þeim veitslur, og eyddist því mjøg bú hennar, og var henni mikil raun ad þessu øllusaman. En þad er ad segja frá ferdum Odysseifs í stuttu máli (23 B. 310—341), ad hann fór 12 skipum frá Trójulandi, og kom fyrst til Kikona, þadan til Lótofaga, þadan til Kyklópa, hvar

hann blindadi risann Pólyfenius, sem drepid hafdi nokkra af félögum hans; þadan fór hann til Aeolusar, sem gaf honum byr heim, en þá hann var kominn í landssýn vid Ithøku, gérdi á andvidri, og hraktist hann til Læstrygona: þeir brutu 11 skip hans, og drápu hvert mannsbarn, er á var, en hann komst sjálfur af einskipa til eyarinnar Aeæu; þar bjó Kirka, hún var gydja mjøg fjølkunnug: ad hennar rádum fór hann í Myrkheima. Á leidinni frá Kirku kom hann til Sírenanna, og í røsting milli Skyllu og Charybdar, og lendti vid Prínakíu, hvar skipverjar hans slátrudu nautum Heliusar sér til matar. En á leid þadan braut skip hans í þrumuvedri, tóndust menn allir, nema hann komst einn á skipeflakinn til gydjunnar Kalypsóar á eyunni Ogygiu: hún fékk honum far, flota einn; en flotann leysti sundur í hafi úti, og komst Odysseifur á sundi til Faakalands, hvar hann var í gódu yfirlæti, vel haldinn; gáfu Faakar honum miklar gjafir, og fluttu hann á land í Ithøku. En, sem Odysseifur er á land kominn í ríki sínu, og fréttir hvørsu ástadt er heima, þá vill hann ekki svo skjótt láta vita, hvørr hann er, tekur á sig stafkarls búníng, og lætur fyrst fyrirberast hjá svínahirdirnum Evmæus: þar segir hann syni sínum Telemachus frá, hverr hann sé, og taka þeir rád sín saman, ad fyrikoma bidlunum. Sídan fer hann inni borgina til bidlanna, sem misþjóda honum; hann talar þar vid Penelopu, en Erynoma fóstra hans þekkir hann af øri á fætinum, þá hann tekur fótlaug. Nú gérir Penelopa bidlunum þañ kost, ad sá þeirra skuli ná rádahag vid sig, sem sái dreg-

id upp boga Odysseifs; en þad gétur enginn. Sídan tekur Odysseifur boga sinn, og dregur upp, og skýst þegar í móti bidlunum, og léttir ekki fyrr enn hann hefir lagt þá ad velli alla. Eptir þad segir hann Penelopu, hvørr hann sé, en hún trúir ekki, fyrr enn hann hefir lýst med gløggum merkjum hjónarúmi þeirra, sem hann sjálfur hafdi smídad; gánga þau svo til sængur, og segja hvørt ødru frá raunum sínum. Daginn eptir fer Odysseifur ad finna Laertes fødur sinn. Einn af sonum þeirra føllnu bidla vekur upphlaup, sem Odysseifur og Laertes sefa, og kémst svo á gódur fridur.

---

# Odysseifs-Drápa.

## Fyrsta Bók.

### Inntak fyrstu Bókar.

Skáldid heitir á saunggydjuna, ad hún kvedi um før Odyseifs frá Trójulandi, og heimkomu hans (1—10), og byrjar þar søguna, er Odyseifur ætlar ad fara frá Kalypsó. Í fjærveru Posídons, er lengi hafdi hindrad heimfør hans, er þad ályktad á gudafefnu, ad Kalypsó veiti honum burtfarar leyfi (11—95); en Athena, sem mest gengst fyrir þessu, fer til Ithøku á fund Telemachus's, sonar hans: situr þar fjøldi bidla,

er ætludu til ráðahags við Penelopu, dagléga að veitslum, og eyða eigum Odysseifs (96—112). Telemachus situr hjá þeim hugsjúkur; hann fagnar vel gyðjunni, er tekið hafði á sig líki Mentesar Tafyparkóngs; hún talar við hann mart, og vekur þess von-ir hjá honum, að hann muni bráðum sjá föður sinn heimkominn, og eggjar hann að stefna Iþökumönnum til þings, ákjæra yfirgáng bidlanna opinberlega, og fara þegar til Nestors og MeneláSar, að spyrjast fyrir um föður sinn (113—318). Femíus kvedur fyrir bidlunum kvæði, yfir bordum, um hættuför Grikkja frá Trójuborg; líkar Penelopu ekki þetta kvæðisefni, og bidur saungmanninn kveda um annad, en Telemachus átelur hana einardlega; gérir hann sig nú alvarlegann vid bidlana, gésur þeim ad skilja fyrirætlun sína, og bodar þeim þíng daginn eptir (319—419). Lídur nú dagur ad kvöldi, og fara bidlarnir heim frá saungnum og dansinum, og sjálfur Telemachus gengur til hvílu (420—444).



Seg mér, saunggydja, frá þeim vidförla manni, sem hraktist mjög vída, eptir þad hann hafdi lagt í eydi hina helgu borg Trójulands, þeim er sá borgir margra manna, og lærdi ad þekkja þeirra sidu. Á hafinu þoldi sá madur margar hugraunir, (5) þá hann leitadi sér sjálfum lífs, og heimkomu félögum sínum; en allt fyrir þad fékk hann ei frelsad félaga sína, þótt hann vildi; því þeir tortýndust sökum illverka sinna, þeir fávísu, er átu naut Helíusar Hyp-

eríonssonar, sem þessvegna lèt þá missa heimkomu dagsins. Seg mèr og nokkud frá þessu, gydja, dóttir Seifs!

Nú vóru allir adrir, þeim er audid vard ad umflýa brádann bana, heimkomnir og sloppnir úr strídinu og sjáfar volkinu; en honum einum, sem lángadi heim og þrádi konu sína, hèlt sú tignarlega skógargydja, Kalypsó, skörúngur gydjanna, í vídum helli, og vildi, ad hann yrdi madurinn sinn. En sem tímar lidu fram, og þad ár var loksins komid, þá gudirnir höfdu ætlad honum ad komast heim aptur til Ithöku, þá var hann þó ecki úr þrautum sloppinn, enn þótt hann væri med vinum kominn. Allir gudir aumkvudu hann, nema Posídon, hann var sí-reidur þeim godum-líka Odysseifi, allt þar til hann komst til síns födurlands.

En nú var Posídon farinn til hinna fjarlægu Ethíópa — til Ethíópanna, sem deilast í tvo flocka, og búa ystir manna, sumir þar, sem Hyperíonssonur gengur undir, en adrir þar, sem hann kémur upp — átti hann þar von á stóru gridúngablóti og hrútablóti; sat hann þar nú ad veitslu og gladdi sig. Á medan söfnudust hinir adrir gudir saman í húsum hins Olympiska Seifs; tók fadir manna og guda fyrstur þeirra til máls: því hann mundi í huga sínum til hins göfuga Egisthusar, hvern sá vídfrægi Orestes Agamemnonsson hafdi vegid; og sem hann mintist hans, taladi hann þau ord til hinna ódaudlegu:

Mikil firn eru þad, hversu daudlegir menn þó ásaka gudina! þeir segja, ad hid illa komi frá oss, en rata þó sjálfir í raunir, yfir forlög fram, sökum óstjórilætis sjálfra þeirra. Svo var og nú, ad Egisthus giptist, yfir forlög fram, eginkonu Atreifssonar, en vó sjálfann hann, er hann var heim kominn; og þó vissi hann, ad þad mundi verda sinn brádur bani: því vèr höfdum sendt Hermes til hans, hinn glöggskygna Argusbana, og sagt honum fyrir-

ad hann hvørki skyldi drepa hann, né eiga konu hans: „því Orestes mun hefna Atreifssonar, þá hann er ordinn fullþroska, og hann tekur til ad lengja eptir fødurleifd sinni," sagdi Hermes, en gat þó ei talad honum hughvarf, þótt hann vildi honum vel; hefir hann því nú tekid gjøld fyrir þad allt í einu.

Sú bláeyga gydja Athena svaradi honum þá: vor fadir, Kronusson, ædstur Konúnga! hann er þó í ógæfuna hrapadur, og helst til maklega; og svo fari hverr sá, er slíkt gjørir! En eg er annars hugar vegna hins vitra Odysseifs, þess ógæfusama manns, er nú hefir lengi mátt ángur bída, fjærri vinum sínum, á umflotinni eyu þar, sem midbik sjáfarins er; eyan er vidi vaxin: þar á gydja búsiadi, dóttir hins vitra Atlants, þess er þekkir djúp alls sjáfarins, og heldur sjálfur upp þeim háfu slodum, er sundur halda jørdu og himni. Hans dóttir heldur þeim auma grátanda manni, og tøfrar hann med mjúkum og blídum ordum, svo hann gleymi Ithøku. En Odysseifur, sem lángar eptir ad sjá, þó ekki væri nema reyk uppstíga af fødurlandi sínu, óskar sér, ad hann væri daudur. Og þó viknar ekki þitt hjarta, þú Olympiski! Var þá Odysseifur þér ekki til vilja, er hann blótadi hjá skipum Grikkja í því vída Trójulandi? Hví ertú þá svo reidur honum, Zeifur?

Ský-safnarinn Zeifur svaradi henni og sagdi; hvada ord leid af vørum þér, dóttir! Hvørnig mætti eg þó gleyma þeim godum-líka Odysseifi, sem bædi er fyrir ødrum mønnum ad vitsmunum, og hefir fremur ødrum blótad þá ódaudlegu gudi, sem byggja vídann himin? En sá jardkríngjandi Posídon er honum sí-reidur søkum Kyklópsins, er hann blindadi hinn godum-líka Pólyfemus, sem kraptamestur er allra Kyklópa: hvørn skógargydjan Thoósa, dóttir Forkunns, rádanda þess ófrjófa hafs, átti vid Po-

síðoni í víðum helli. Þessvegna lætur Posídon landaskélfir Odysseif hrekjast lángt frá föðurlandi sínu, (75) án þess þó að týna lífi hans. Látum oss nú allir, sem hér erum, ráðslaga um það, hvernin hann fái aptur heim komist. En Posídon mun gefa ró reiði sinni, því ekki mun honum einumsaman duga að þreyta kapp við alla, í þrá við þá ódauðlegu guði.

(80) Sú bláeyga gyðja Athena svaraði honum því næst: vor faðir, Krónússon, æðstur Kónúnga! með því það er vilji hinna sælu guða, að sá vitri Odysseifur komist aptur til húss síns, þá skulum vér senda sendiguðinn Hermes Argusbana (85) til eyarinnar Ogygíu, að hann sem fyrst segi hinni fagurlokkuðu skógargyðju þá óbrigðulu ráðstöfun, að þeim þrautgóða Odysseifi sé heimförin ætluð. En eg mun fara til Ithaku, og eggja enn betur son hans, og láta djerfúng koma í brjóst honum, (90) að hann stefni þeim hárprúðu Achæum til þíngs, og vísi burt biðlunum, sem ávalt drepa niður hans sauðahjarðir og gánglötu og bjúghyrndu naut. Eg skal og senda hann til Spartu og þeirrar sendnu Pylusborgar, að hann spyrjist fyrir um föður sinn, ef hann kynni máské til hans að frétta, (95) svo hann fái gott orð hjá mönnum.

Þá hún hafði þetta mælt, batt hún undir fætur sér fagra, himneska, gullega skó, er báru hana, sem vindur bléssi, yfir láð og lög. Hún tók sterkt spjót með hvössum eir-oddi, (100) þúngt, stórt og stinnt, með hverju dóttir hins máttuga föðurs leggur að velli fylkingar kappanna, þá hún er þeim reið. Hún fór brunandi ofan af Olymps-tindum, og nam staðar í Ithokulandi, við garðs þröskuldinn, fyrir framan fórdyri Odysseifs, og hafði í hendi sér eirspjótið; (105) líktist hún þá gésta-félaganum Mentesi, höfðingja Tafeyar-manna. Hún hitti þar þá vasklegu biðla, vóru þeir að skémta sér með tafli fyrir framan

dyrnar, og sátu á húdunum af þeim nautum, er þeir høfdu sjálfir drepid. Þar vóru hjá þeim hróparar og stúlir þjónustumenn; blønduðu sumir vín og vatn í skaptkérum, en adrir þvodu bordin med gljúpum njardarvøttum, settu þau framm fyrir sig, og skomtudu mikid af kjøti.

Sá godum-líki Telemachus leit hana miklu fyrst: því hann sat medal bidlanna, sorgmæddur í hjarta, og rendi huganum til síns góda fødur, hvort hann mundi þó koma og støkkva bidlunum af heimili sínu, en halda sjálfur sæmd sinni, og ráda eignum sínum. En sem hann var um þetta ad hugsa, þar sem hann sat medal bidlanna, leit hann Athenu, og gékk þegar út úr fordyrinu, því honum þótti ósæmilegt, ad gésturinn stædi lengi vid dyrnar. Hann gékk til hans, greip um hægri hønd hans, og tók vid eirspjótinu, ávarpadi hann skjótum ordum, og sagdi: sæll vertú, géstur, þú skalt vera med oss velkominn; en þá þú hefir matast, skaltú segja erindi þitt.

Þá hann hafdi þad sagt, gékk hann á undan, en Pallas Athena fylgdi honum eptir. En er þau vóru komin inn í þann háfa sal, bar hann spjótid ad þeirri laungu stod, og setti þad inn í þá velskøfnu spjótahirzlu, hvared stódu mørg ønnur spjót, er sá þolgódi Odysseifur átti; en hana leiddi hann til hásætis, breiddi undir hana fallegann dúk, mikla gérsemi, og lét hana setjast, en fótaskør var undir, til ad standa á. Sídan setti hann útflúradann legubekk þar hjá handa sér, afsídis frá bidlunum, bædi til þess, ad gésturinn fengi ekki leida á máltídinni af hávadanum, ef hann væri saman vid ofríkismennina, og líka til þess, ad hann gæti spurt hann um sinn fjærveranda fødur. Þá kom þerna med handlaug í fallegri, gullegri vatnskønnu, á silfur-fati, og helti á, ad hann gæti þvegid sér; þá setti hún fram skafid bord, en sú skøruglega matselja kom med braud og setti á bordid; hún

bar og fram marga rétti, og midladi fúslega af því, sem til var, (en matsveininn tók diska med allskonar slátri, og setti fram, og lét hjá þeim gull=lega bikara) en hróparinn géck opt til þeirra, og skenkti vín fyrir þá.

Nú komu þeir vasklegu bidlar inn, og settust hverr ad ødrum á bekkina og sætin. Hróparárnir helltu vatni á hendur þeim, ambáttirnar hlódu karfirnar af braudi, og sveinarnir fylltu skaptkerin á barma med drykk. Tóku þeir nú til þess tilreidda matar, er á bord var borinn. En er bidlarnir høfdu sadt laungun sína á mat og drykk, þá var þeim um hitt hugad, saungínn og dansleikinn: því þad er veitslunnar prýdi. Þá rétti hróparinn ofurfagra hørpu ad Femíusi, er saung hjá bidlunum naudugur; hann sló þá hørpuna, og hóf upp fagran saung. En Telemachus laut høfdi, til þeirrar bláeygu Athenu, svo hinir skyldi ekki heyra, og mælti til hennar:

Kjæri gestur, muntu nokkud taka illa upp þad eg segi? Þessir menn láta sér mest um þad hugad, hørpuslátt=inn og saungínn, og komast létt ad, er þeir eyda bótalaust annarlegum eigum, eigum þess manns, hvørs bleiku bein munu nú á landi liggja, og í regni rotna, edur alda þau um haf hrekja. Ef þeir ad eins sæi hann apturkominn til Ithøku, mundu þeir allir óska sér, ad vera heldur léttari á fæti, en audgari af klædum og gulli. En nú er hann tøndur svona óhamíngjusamlega; og er oss þad eingin hugfró, þótt einhvørr jardneskra manna segi, ad hann muni koma; því útsjed er um hans heimkomu dag. En þú gjør nú svo vel, ad segja mér og inna med sannindum frá þessu: hvørr ertu, og hvørra manna? hvar er borg þín og foreldri? á hvada skipi ertu kominn? hví fluttu skipverjarnir þig til Ithøku? hvad segja þeir um, hvørjir þeir séu? því eigi hygg eg þig híngad kominn

landveginn. Seg mér þad og med sanni, ad ég verda vísari: er þad í fyrsta sinni, ad þú vitjar híngad nú, eda ertu géstavinur fødur míns? Spyr eg þess af því, ad margir menn adrir hafa heimsótt oss, því hann var mannblendinn madur.

Sú bláeyga gydja Athena svaradi honum aptur: þá skal eg segja þér frá þessu med sannindum. Eg em Mentes, sonur hins vitra Anchíalusar, en eg ræd fyrir þeim ródrar-gjørnu Tafeyar-mønnum. Er eg hér nú kominn med skip og menn, og ætla yfir þad døkkva haf í framandi land, til Temesn, eptir eiri; en eg flyt fagurt járn. Skip mitt liggur vid landsbygdina, eigi allskamt frá borginni í Hrithru høfn, undir því skógvaxna Neju-fjalli. Vórum vid fadir þinn aldavinir, þóttú farir og spyrjir þinn aldrada ødlíng Laertes, er menn segja ad hættur sé ad koma til borgarinnar, heldur beri bøl sitt, lángt úti á landsbygdinni, med aldradri þernu, sem færir honum mat og drykk, þá limir hans eru lúnir ordnir af erfidinu og af því ad bogra á þeim frjósama vínakri. En eg kom nú af því, ad menn søgdu hann vera í land kominn, fødur þinn; og mun þó hitt heldur vera, ad gudirnir munu hindra heimfør hans. Því víst er þad, ad ekki er sá gødum-líki Odysseifur á landi dáinn, heldur er hann ennþá lifs einhverstadar á því vída hafi, á umflotinni eyu; munu hardfengir og grimmir menn halda honum og hindra hann naudugann. En nú skal eg spá, eins og gudirnir skjóta mér í hug, og eins og eg hygg ad eptir mun gánga, og em eg þó engi spámadur, eda gløggþekkinn á fugla teikn: hann mun ekki verda hér eptir lengi í burtu frá sínu kjæra fød-

urlandi, og ekki þó járnfjøtur haldi honum; mun hann leita sér ráds, ad hann fái heimkomist, því hann er madur furdu úrrædagódur. En gjør nú svo vel, og seg mér og inn med sannindum frá því, hvørt þú raunar ert sonur sjálfs Odysseifs, svo vøxtulegur madur; furdu líkur ertu honum þó til høfudsins, og hefir føgur augu, sem hann. Vórum vid svo opt saman, ádur hann fór upp til Trójulands med ødrum høfdingjum Grikkja, er þángad fóru á rúmbygdum skipum; en upp frá því hef eg hvørki séd Odysseif, né hann mig.

Sá vitri Telemachus svaradi henni aptur: eg skal segja þér frá þessu, géstur! med sannindum. Módir mín segir mig vera son hans, en sjálfur veit eg þad ekki; því engi veit sjálfur med vissu uppruna sinn. Eg vildi óska, ad eg væri sonur einhvers þess gæfumanns, er yrdi á sjálfs eignum ellidáudur; en nú er eg sagdur son þess manns, sem ordinn er hinn ógæfusamasti daudlegra manna. Og hefi eg nú svarad spurníngu þinni.

Sú bláeyga gydja Athena sagdi til hans: ekki munu gudirnir hafa tilætlast, ad kyn þitt skyldi verda frægdarlaust eptirleidis, er Penelopa hefir átt slíkann son, sem þú ert. En gjør nú svo vel, og seg mér frá med sanníndum: hvada veitsla er þetta, og hvørr er þessi mannfjøldi? hvør naudsyn ber til slíks? er þad sveitar-drykkja eda brúdkaups veitsla? þad er þó víst ekki samburdar-øl: mér sýnast géstirnir dramba svo frekjulega vid máltídina; og mundi hvørjum skynsømum manni, sem vid væri staddur, ofbjóda ad horfa uppá slíkann ósóma.

(230) Sá vitri Telemachus svaradi henni: segja mun eg þér, gèstur, þad er þú spyrd mig um, og þér er forvitni á ad vita. Eitt sinn gat þetta hús ordid audúgt og velmegandi, medan sá madur var innanlands. En nú hafa þeir illrádu gudir látid annad uppkoma, (235) er þeir hafa aungva afspurn látid af honum gánga, fremur en ollum mønnum ødrum. Því sídur mundi mig ángrad hafa daudi hans, ef hann hefdi látist í landi Trójumanna med sveitúngum sínum, eda í vina høndum, ad aflokinu strídinu; þá mundu allir Achæar hafa orpid haug eptir hann, (240) og þá mundi hann líka hafa aflad syni sínum mikillar frægdar framvegis. En nú hafa Svipti-nornirnar hrifid hann í burtu frægdarlausann: hann er horfinn, án þess nokkur viti af honum eda til hans spyrjist, en eptirskilid mér harma og sorgir. Er hann nú ekki heldur sá eini, sem eg andvarpa af grátandi, því gudirnir hafa nú búid mér adrar illar skaprannir. (245) Því allir þeir høfdíngjar, sem ráda fyrir eyunum Dúlichiu, Samu og hinni skógvøxnu Zakynthu, og allir þeir, sem ríki hafa á þeirri hrjóstrugu Ithøku, bidla til módur minnar og eyda búi hennar; en hún gèrir hvørki, ad neita þessum rádahag, sem henni er svo á móti skapi, né heldur gètur af sér fengid ad gánga ad honum. (250) En þeir eta upp bú mitt, og munu brádum tortýna mér sjálfum.

Pallas Athena vard grøm vid, og sagdi til hans: ó-skøp er slíkt! sannlega hefir þú mikla þørf á þeim fjærverandi Odysseifi, ad hann leggi høndur á þá ósvífnu bidla. (255) Því ef hann væri nú kominn, og stædi fremst í stofudyrunum, med hjálm, skjøld og tvø spjót, og væri líkur því, sem hann var, þegar eg fyrst sá hann, er hann drakk og skémti sér í voru húsi, þá hann kom heim frá Efyru, frá Ilusi Mermerussyni, — (260) því Odysseifur fór þángad á skipi, til ad útvega sér mannskædt eitur, sem

hann vildi hafa til að bera á þær eir-slegnu örvar; fékk Ilus honum ekki eitrið, því hann óttaðist þá eilífu guði: en faðir minn fékk honum það, því hann var mikill vinur hans — væri Odysseifur eins og hann var þá, og fyndi biðlana, þá mundi þeir allir hreppa bráðan bana og beiska giftingu. Þó er þetta á guðanna valdi, hvert hann náir heim að komast, eða ekki, og hefna sín í húsi sínu. En eg ræð þér að hugsa um það, hvörnig þú megir reka biðlana af heimilinu. Tak nú eptir, kjæri, og hygg að orðum mínum: kalla þá Achæiska höfðíngja til þings á morgun, seg öllum vandkvæði þitt, og skjót máli þínu til guðanna: bið biðlana fara heim til búa sinna; en leiki móður þinni hugur á að giptast, þá fari hún aptur heim til síns ríka föðurs: munu þeir (frændur hennar) þá sjá fyrir ráði hennar, og leggja framm svo mikinn heimanmund, sem sæmilegt er að fylgi kjærri dóttur. En sjálfum þér mun eg leggja ráð, sem duga mun, ef þú bregður eigi af. Skipa þú skip, það er þú átt best til, tuttugu ræðurum, og far að spyrjast fyrir um föður þinn, er lengi hefir á brautu verið, ef svo kann verða, að einhvörr dauðlegra manna kunni þér frá að segja, eða þú heyrir raust frá Seifi, sú er helzt veitir mönnum vitneskju. Far þú fyrst til Pylusborgar, og spyr þann goðum-líka Nestor; en þaðan til Spörtu, til hins bleikhára Menelásar, því hann hefir síðast heim komið hinna eirbrynjuðu Achæa. Verði nú svo, að þú fregnir föður þinn lifs, og hans heim von, þá skaltu enn þreya við árlángt, þóttú sért að þreyttur. En ef þú fréttir hann látinn og liðinn úr heimi, þá skaltu hverfa heim aptur til föðurjarðar þinnar, og verpa haug eptir hann, og lát fylgja honum svo mikið fé, að sómi sé að, og gipt manni móður þína. En sem þú hefir þessu lokið og af hendi leyst, leita þá ráðs af hug og hjarta, hvörsu þú megir drepa

bidlana í hibýlum þínum, annadhvort med vél edur opinberlega; og sæmir þér ekki ad sóna af þér bernsku brøgd, er þú ert af barnsaldrinum kominn. Eda heyrir þú ekki, hvørsu hinn godum-líki Orestes er frægur ordinn hjá øllum mønnum, sídan hann tók af lífi fødurbana sinn, þann vélráda Ægisthus, sem drap hans fræga fødur. Einnig þú, vinur, sem ert svo vænlegur og vøxtulegur, ver hraustur, svo eptirkomendurnir beri þér gott ord. En nú mun eg fara ofan til míns skjóta skips og félaga minna, sem munu vera leidir ordnir af því ad bída mín; en lát þér hugfast mín ord og geym þeirra.

Sá vitri Telemachus svaradi henni: sannlega talar þú þetta, géstur! af velvilja til mín, sem fadir mundi syni sínum; og skal eg þessu aldrei gleyma. En gjør nú svo vel, og bíd vid lengur, þó þér sé annt um ferdina, þar til þú hefir tekid laugar og endurnært þitt hjarta: skaltu svo gánga, gladur í huga, til skips þíns, og þiggja af mér dýrmæta og mjøg fagra gjøf, sem skal vera þér menjagripur frá mér; eru vinsamlegir gésta-félagar vanir ad géfa slíkar gjafir gésta-vinum sínum.

Sú bláeyga gydja Athena svaradi honum: haltú mér nú ekki lengur, því mér er annt um ferdina. En gjøf þá, er hjarta þitt býdur þér ad géfa mér, þá skaltu géfa mér, er eg kém aptur, ad eg hafi hana heim med mér; og máttu fyrir því velja mér fagra gjøf, ad eg mun ekki láta hana ólaunada.

Ad því mæltu fór hin bláeyga Athena burt, og leid í hvarf, sem fugl, svo ekki festi auga á. Hún lét koma hug og djørfúng í brjóst hans, og lét hann enn betur muna

til födur síns, enn ádur. En er hann vard þess varr, brá hónum vid, því hann grunadi, ad vera mundi einhverr gudanna; gékk þá hinn gudúm-líki madur þegar til bidlanna. Sá vidfrægi saungmadur var þá ad kveda fyrir þeim, en þeir sátu þegjandi og hlýddu á: hann kvad um þá ógæfusomu heimfør Achæa frá Trójulandi, er Pallas Athena hafdi ákvedid þeim.

Sú vitra Penelópa Ikaríusdóttir heyrdi ofan úr loptsalnum þann unnarfulla saung. Hún gékk ofan þann háfa stiga á herbergi sínu; eigi var hún ein, henni fylgdu tvær þjónustumeyar. En sem sú ágæta kona kom til bidlanna, nam hún stadar vid stod þess velsmídada sals og hélt fyrir andlit sér skínandi hofudblæu; en þær trúu þjónustumeyar stódu sín til hvorrar handar henni. Sídan mælti hún grátandi til þess andríka saungmanns:

Femíus, þú kannt þó mart annad, sem mønnum sé skémtan ad, afreksverk bædi manna og guda, er saungmennirnir vídfrægja; kved þú þó eitthvad af þessu, medan þú situr hjá þeim, en þeir drekki vínid og hafi hljótt um sig. En þú hætt þessum sorglega saung, er ávalt ángrar hjartad í brjósti mér: því ógleymanleg sorg hefir hvad mest snortid mig, er eg á slíks vinar á bak ad sjá, og til þess manns ad minna, hvørs ordstír gengur vída um Grikkland og allt inní Argusland.

Sá vitri Telemachus svaradi henni: módir min, því anntú ekki þeim kjærkomna saungmanni ad skémta, á þann hátt sem ándagipt hans hræríst. Ekki er saungmanninum um ad kénna, heldur Seifi, ef nokkrum er: því hann úthlutar hinum hugvitsømu mønnum, eptir því sem

hann vill. En þessum manni er ekki að lá, þó hann kvedi um ógæfu Danaíkra, því menn vidfrægja heldur það kvædi, er mønnum er mest nýlunda að heyra. Veri því hugur þinn og hjarta þolinmódt á að hlýda; því ekki er Odysseifur sá eini, er misst hefir heimkomu dagsins í Trójulandi: margir aðrir menn hafa og misst hans. En far þú nú til herbergis þíns, og annast um vinnu þína, vefinn og snælduna, og bid þjónustumeyarnar að fara til verka; en allir karlmenn eiga að láta sér hugað um rádagérdir, einkum eg, sem er hér húss-rádandi.

Henni brá mjøg við þessi ord, og gékk aptur til herbergis síns: því hún lagdi á hjarta viturlegt andsvar sonar síns. En er hún var komin upp í loptsalinn med þjónustumeynnum, grét hún Odysseif, sinn kjæra mann, þar til sú bláeyga Athena brá sætum svefni yfir hvarma hennar.

Biðlarnir tóku nú til að hafa hávada í þeim dymma sal, því allir vildu hvíla í sæng hjá henni. Þá tók sá vitri Telemachus svo til máls við þá:

Þér biðlar módur minnar, sem érud úm skør fram offasengir, látum oss nú snæda og vera kátir, og hafi enginn hávada; því það er unun, að hlýda á slíkann søngmann, sem þessi er: því hans rómur er líkur guðanna. En á morgun snemma skulum vér allir gánga á þíng og halda samkomu: skal eg þá djarflega kveda upp fyriræltun mína, að þér skulud á brott fara úr húsum mínum: þér skulud taka adrar veitslur, og eyda fé ydru sjálfra, og fara hverir til annara að heimbodum. En ef ydur þykir það fýsilegra og sæmra, að eyda fé eins manns bótalaust, eydið þá; en eg mun heita á þá eilífu guði, ef svo kann verda, að Zeifur láti ydvarra tilgjørda hefnt verda: kann þá verda, að þér fallið óheilagir í húsum minum.

Svo taladi hann, en þeir bitu fast á varirnar; og undrudust, hve djarflega Telemachus taladi.

Þá svaradi honum Antinous Evpithelfsson: Telemachus, sannlega kenna gudirnir sjálfir þér; ad vera stórordur og djarfmæltur. Ekki skal Kronússon gera þig ad Kóngi á þeirri umflotnu Ithöku, sem þú átt burdi til eptir födur þinn.

Sá vitri Telemachus svaradi honum: muntu nokkud taka illa upp þad eg segi? Vilja mundi eg þó ödlast þetta, ef Zeifur vildi leyfa. Hvört kallar þú þetta hinn versta hlut med mönnum? Ad vísu er þad ekki slæmur hlutur, ad vera Kóngur, því brádt verdur hús hans audugt, og hann sjálfur meir virdur. En margir eru og adrir til höfdingjar Achæa á þeirri umflotnu Ithöku, úngir og gamlir; af hvörjum einhvör mun hljóta þetta, þared sá godum-líki Odysseifur er dáinn; en eg mun ráda verda húsi voru og þrælum þeim, er sá godum-líki Odysseifur hertók handa mér.

Evrymachus Polybusson svaradi honum: sannlega er þad á gudanna valdi, hvörr Achæa Kóngur verdur á þeirri umflotnu Ithöku. En halda muntu mega eignum þinum sjálfur og ráda húsi þínu. Þó er ennþá svo bygdum varid á Ithöku, ad ekki er örvænt, ad sá madur komi, sem ræni þig med valdi eigum þínum naudugann. En eg vil spyrja þig, kjæri! um gestinn: hvadan er þessi madur, frá hvada landi segist hann vera? hvar er ætt hans og födurland? færir hann nokkura fregn um komu födur þíns? eda kemur hann hingad í erindum sínum sjálfs? Enn hvad hann spratt fljótt upp, og gekk burt, og vildi ekki láta þekkja sig! og var þó madurinn öldungis ekki ódrengilegur álitum.

Sá vitri Telemachus svaradi honum; Evrymáchus! víst er útsied um heimkomu fodur míns; og ler eg því hættur ad trúa fréttum, þó þær berist; (415) og hirdi ekki heldur um atkvædi þess spámanns, er módir min hefir kallad í hús sitt og leitar frétta af. En þessi madur er gestafélagi fodur míns frá Tafey, kvedst hann heita Mentes, sonur þess vitra Anchialusar, en hann rædur yfir þeim ródrargjörnu Tafeyarmönnum.

(420) Svo taladi Telemachus, en hann þekti þó þá ódaudlegu gydju í huga sínum. Þeir fóru þá til dansins og þess ununarfulla saungs, og skémtu sér, og bidu þess ad kvöld kjæmi; og sem þeir skémtu sér, kom þad dymma kvöld yfir þá: gékk þá hvørr þeirra heim, og vildu leggja sig til svefns. (425) En Telemachus gékk til sængur, þar sem hátt svefnhús var bygt handa honum í þeim fagra húsagardi á vídsýnum stad: hafdi hann nú miklar áhyggjur. Sú gjætna Evryklía, dóttir Ops Písenorssonar, fylgdi honum, og bar logandi blys; (430) hafdi Laertes fyrrum keypt hana frumvarta med fé sínu, og géfid fyrir tuttugu fórverd, virdti hann hana í húsinu jafnt sinni kjæru konu, hafdi þó enn ekki samrekkt henni, því hann vildi forra sig reidi konu sinnar. Hún gékk med honum, og bar logandi blys; unnti hún honum mest (435) af ambáttunum, og hafdi fóstrad hann í barnæsku. Hann lauk upp hurd þess velsmídada svefnhúss, settist á rúmid, og fór úr þeim mjúka kyrtli, og rétti hann ad þeirri gætnu gömlu konu; en hún lagdi saman kyrtilinn vandlega, (440) og hengdi uppá nagla hjá því útskorna rúmi. Sídan gékk hún út úr svefnskálanum, dró ad hurdina med hurdarhríngnum, og skaut lokunni fyrir med ólinni. Þar lá hann sveipadur saudar blómi, og var alla nóttina ad hugsa úti þá ferd, er Athena hafdi bodid honum ad fara.

---

# Odysseifs-Drápa.

## Önnur Bók.

### Inntak annarar Bókar.

Telemachus stefnir Ithöku-mönnum daginn eptir til þings, kvartar yfir yfirgángi biðlanna, og beiðir lýð-inn aðstoðar (1—79). Antínóus, sá helzti biðlanna, varpar skuldinni á Penelopu, og segir að þessum yfir-gángi muni ei linna, nema hún giptist einhvörjum eða fari heim aptur til Ikarius's föður síns (80—128). Telemachus svarar honum, og vísar biðlunum djarflega af heimilinu; í því fljúga þar ernir frammhjá, og legg-ur spámaðurinn Halitherses það út, sem óheilla merki fyrir biðlana, en Evrymachus gérir gis að honum (129—207). En sem Telemachus finnur, að hann muni engin lof fá síns máls, beiðist hann skips, sem hann géti farið á til Pylusborgar og Spörtu, til að spyrjast fyrir um föður sinn; en honum er hér á móti svarað gabbi einu, og slítur við það þínginu (208—259). Þá gengur Telemachus til strandar, og heitir á Athenu: hún kémur til hans í líki Mentors, og lofar að fá honum búið skip, og býðst til fylgdar við hann (260—295). Síð-an fer hann heim, og lætur ráðakonuna Evryklíu búa fararnesti á laun við móður sína (296—381). Athena ræður menn til fararinnar, fær skip hjá Noemoni, og set-ur það fram; leggja þau svo bæði úr höfn um kvöldið (382—434).

En sem sú árborna rósfingraða morgungyðja sást, spratt Odysseifs kjæri son úr rekkju, og fór i klæði sín: hann girti sig bitru sverði, og batt fagra skó undir sínar hraustlegu fætur, og gékk þegar út úr svefnherberginu, líkur í sjón einhverjum guðanna. Hann bad þegar þá snjallrómuðu hrópara að kalla þá hárprúðu Achæa til þíngs; en þeir kölluðu fólkið saman, og söfnuðust menn brátt. En er menn höfðu jafnast saman, og voru komnir á einn stað, þá gékk hann á þíngið, og hafði eirspjót i hendi; eigi var hann einn, honum fylgdu fóthvatir hundar. Þá brá Athena yfir hann himneskri fegurð, og undraðist hann allur lýður, er hann gékk á þíngið. Hann settist í sæti föður síns, en öldúngarnir viku fyrir hönum. Öldúngurinn Ægyptius hóf þá ræðu á þínginu; hann var bjúgur af elli, og margfróður: hafði hans kjæri sonur, sá spjótfimi Antifus, farið á þeim rúmgóðu skipum til hinnar hestauðugu Ilusborgar með þeim goðumlíka Odysseifi, en sá grimmi Kyklópur drap hann í þeim víða helli, og bjó hann seinastann sér til snæðíngs. Enn átti hann þrjá sonu aðra: var Evrynomus í sveit með biðlunum, en tveir höfðu alla stund búið á ódalseignum sínum. En þó mátti hann aldrei gleyma þeim eina, grátinn og harmandi maður. Hann héldt nú ræðu á þínginu, felldi tár og mælti:

Heyrið nú orð mín, Ithakumenn! aldrei höfum vér nokkru sinni þíng átt eða samkomu, siðan hinn ágæti Odysseifur fór úr landi á þeim rúmbygðu skipum. Hverr hefir þá kvadt þessa þíngs nú? hverr hinna ýngri eða

eldri manna, er svo vant vid kominn? (30) hefir hann nykkra fregn af, ad herr sé í nánd, ad hann kunni oss vísa hersøgn ad segja, er hann hafi fyrr frétt enn adrir? eda hefir hann eitthvert annad alþýdlegt málefni ad flytia eda kiæra? Svo lítst mér, sem þessi muni vera gódur madur; kvedji hann manna heppnastur þíngs! géfi Zeifur honum giptu til ad koma því gagnsmáli til vegar, er hann hefir í hyggju!

(35) Svo mælti hann, en Odysseifs kiæri sonur gladdist vid þessa ordheill; beid hann nú ekki lengi í sæti sínu, því hann lángadi til ad halda rædu, og gékk hann fram á midt þíngid, en hróparinn Písenor, sem var mikill rádsnillíngur, fékk honum sprota í hønd; varpadi hann fyrst ordum á øldúnginn, og sagdi til hans:

(40) Gamli madur, ekki er sá madur fiærstaddur, og muntu brátt kénna hann: eg em sá, er lýdinn hefi saman kallad, og er þad sárast, er á siálfum liggur. Hefi eg ekki neina fregn af, ad herr sé í nánd, ad eg kunni vísa hersøgu ad segja, er eg hafi fyrr frétt en adrir; ekki hefi ég heldur neitt alþýdu mál ad flytja eda kjæra: (45) heldur kiæri eg mín egin vandkvædi; hefir tvenn ógæfa sótt mig heim: ein sú, ad eg hefi mist gódann fødur, sá er eitt sinn var ydar Konúngur hérlandsmanna, og blídskapar madur, sem hann væri fadir ydarr. En hin er þó ógæfan miklu meiri, ad allbrátt mun gjøreydast allt búid, og glatast allar eignirnar: (50) veita bidlar yfirhlaup módur minni naudugri, synir þeirra manna, er gøfgastir eru hér í landi; kveinka þeir sér vid, ad gánga til húss Ikaríuss, [illegible] hennar, ad hann géri siálfur dóttur sína úr gardi, og [illegible]

hana þeim, er hann vill, og honum er næst skapi: heldur venja þeir komur sínar í hús vort dags daglega, slátra nautum, saudum og feitum geitum, halda gildi, og drekka hid skæra vín: sýna þeir í því yfirgáng mikinn, og gengur upp mikill hluti búsins; því nú er ekki madur til stadar, slíkur sem Odysseifur var, ad bægja þessari óheill frá heimilinu: en vér erum þess med aungvu móti umkomnir, ad létta henni af — munum og sídar verda til þess vanfærir og aungvann þrótt af oss sýna: og mundi eg þó hafa vilja til, ad hrinda þessu af mér, ef eg hefda þrek til — því nú er þessi ágángur ekki lengur ordinn þolandi, og ekki lengur hæfilegt, hvorsu hús mitt er í eydi lagt. Látid ydur og sjálfum um finnast, og fyrirverdid ydur fyrir ödrum nábúum ydrum, er í grend búa vid ydur, og óttist gudanna reidi, ad þeir ekki láti nidur á ydur koma þau hin illu verk. Eg bid fyrir sakir hins Olympiska Seifs og Themidar, hvöred setur og bregdur samkomum manna: eigid hér ad eingann hlut, vinir mínir, og látid mig einann vanmegnast af sárri sorg; nema svo sé, ad fadir minn, sá gódi Odysseifur, hafi med heiptar hug gért eitthvad á hluta þeirra fagur - brynhosudu Achæa: sé svo, þá hefnid þess og gjaldid grimmilega med því ad egna þessa menn á móti mér. En þó mundi eg heldur kjósa, ad þér sjálfir eyddud gripum mínum og fénadi; ef þér gérdud þad, mundi eg einhvorntíma bída þess bætur: því þá mundum vér fara um borgina í fjárbón, og bidja bóta, þar til allt væri aptur goldid. Nú þar á móti bakid þér mér óbætanlegar skapraunir.

Þannig taladi hann reidur, og varpadi sprotanum á jördina; honum hrundu tár, en allur lýdur kenndi í brjóst um hann; urdu nú allir bidlarnir ordlausir, og þordi einginn þeirra ad svara Telemachus illa, nema Antinous einn, hann svaradi honum og sagdi:

Stórorður gérist þú nú, Telemachus, og sjest lítt fyrir, er þú talar slíkum smánarorðum til vor! er það séð, að þú vilt géra oss þá skömm, er við oss loði. En ekki þarftú að ásaka oss um þetta biðlana, heldur móður þína, sem er heldur til slægvitur. Því nú eru þegar liðin þrjú ár, og senn hið fjórða, að hún dregur á tálar von Achæa: hún lætur vænlega við alla, lofar öllum góðu, og gérir þeim boð, en hugur hennar er allur annar. Meðal annars hefir hún hugsað upp þessa vél: hún festi upp í herbergi sínu mikinn vef, smágjörvann og ummálsmikinn, og óf; sagði síðan til vor: þér úngu menn, sem hafið biðlað til mín, síðan sá ágæti Odysseifur dó, gérið ei svo bráðann bug að ráðahag við mig; bíðið, þar til eg hefi lokið við dúkinn, að vefturinn verði mér ei ónýtur; það skal vera náklæði handa öðlíngnum Laertes, þegar hið óttalega skapadægur dauðans, þess er manninn leggur flatann, hefir honum á kné komið: svo þær Achæisku konur þurfi ei að bregða mér því, að hann liggi umbúðalaus, svo fjáður maður. Svo mælti hún, og var dælt drengs hug að telja. Nú óf hún þann mikla vef um daga, en rakti upp aptur um nætur, þá hún hafði brugðið upp blysum; fékk hún þannig leynt vélum sínum í þrjú ár, svo Achæar trúðu henni. En er það fjórða ár kom, og missirúm skipti, þá sagði ein af konunum, sem því var kunnug, frá öllu; og vér komum að henni, þar sem hún var að rekja upp aptur þann skínanda vef; varð hún svo að ljúka við vefnaðinn, þó henni væri nauðugt. En biðlarnir svara þér þessu, svo þú sjálfur vitir gjörla, og allir Achæar: lát móður þína burtu, og bið hana giptast þeim, sem faðir hennar vill, og henni er vel að skapi sjálfri. En haldi hún lengur áfram að ángra sonu Achæa með þeim listum, er Athena hefir veitt henni fremur öðrum, sem er kunnátta í fögrum hannyrðum, góð-

ir vitsmunir og slægvitska — høfum vér eigi heyrt, ad nokkur af þeim fagurlokkndu Achæisku konum, er í fornøld lifdu, hafi verid hennar makar hér í, hvørki Tyró, né Alkmena, eda sú fagurbeltada Mykena; jafnadist eingin þessara í vitsmunum vid Penelópu; en þó hefir hún þar tekid upp óheillavænlegt rád: því þeir munu halda áfram ad eyda búi þínu og eigum, medan hún heldur á þessu skaplyndi, er gudirnir nú leggja í brjóst henni; aflar hún sér ad vísu med þessu mikillar frægdar sjálfri, en þér þar á móti mikils fjártjóns. Munum vér hvørki heim fara til búa vorra, eda nokkud annad, fyrr en hún gengur ad eiga einhvørn af Achæum, sem henni gédjast ad.

Sá vitri Telemachus svaradi hönum aptur: ekki má eg, Antinous, reka módur mína, sem ól mig og uppfæddi, af heimilinu nauduga; en fadir minn í útløndum, lifs eda lidinn. Verdur mér þad og þúngt, ef eg læt módur mína frá mér af sjálfs dádum, ad sæta afarkostum af Ikariusi; því fadir hennar mun mér hördu gjalda, en óhamingjan vís annarsvegar: því þá módir mín fer heiman, mun hún heita á þær óttalegu hefndar-nornir; en eg mun hafa álas af mønnum; mun eg því þetta aldrei vid hana nefna. En ef þér skammist ydar nokkud, þá verdid brottu úr húsi mínu, og takid adrar veitslur, eydid fé ydru sjálfra, og farid um ad heimbodum. En þyki ydur sæmra og fýsilegra, ad eyda eigum eins manns bótalaust, þá eydid þeim; en eg mun heita á þá eilífu gudi, ef svo kann verda, ad Zeifur láti ydar tilgjørda hefnt verda; kann þá, verda, ad þér fallid óheilagir í húsum mínum.

Svo mælti Telemachus; en sá vítt-þrumandi Zeifur sendi honum tvo erni ofan af þeim háfa fjalls-tindi. Þeir lidu nokkra stund undan vindi, med útbreidda vængi, hvorr hjá ödrum; en sem þeir komu midt yfir þá ýsmiklu samkomu, þá flugu þeir í hring, med tídum vængja slætti, og horfdu í höfud mönnum, og var augnarád þeirra ills vitalegt: þeir klórudu vángana hvorr á ödrum og hálsana beggja vegna, og þutu sídan til hægri handar gégnum stadinn og hús borgarmanna. En sem menn litu augum fuglana, brá þeim í brún, og hugsudu med sér, hvad verda mundi. Þá tók til máls hinn aldradi ödlíngur Halitherses Mastorsson, sem var allra manna fródastur í því ad þekkja fugla teikn og útþýda fyrirburdi; hann vildi þeim vel, taladi á þinginu og sagdi:

Heyrid nú, Ithokusmenn, hvad eg segi; mæli eg þetta helst til bidlanna, því yfir þeim vofir mikil hætta: mun Odysseifur eigi lengi í burtu verda frá vinum sínum, heldur er hann nú einhvorsstadar í nánd, og býr þessum dauda og feigd öllum, og morgum ödrum af oss, er búum á þeirri vidsýnu Ithoku, mun þad ad tjóni verda. Tökum því sem fyrst rád vor saman, hvorsu vér fáum stödvad ofsrgáng bidlanna; og er þeim þó betra sjálfum eptirleidis, ef þeir láta sjálfir af. Segi eg þessa spá, ekki sem ófródur, heldur sem fródur, því eg hygg, ad allt muni fram vid hann koma, sem eg spádi honum, þá Argífkir fóru upp til Ilus-borgar, og hinn margrádugi Odysseifur med þeim; sagda eg þá, ad hann mundi rata í margar raunir, missa alla félaga sína, og koma heim öllum ókénndur á tuttugasta ári; mun nú allt þetta framkoma.

Evrymachus Polybusson svaradi honum: far þú held-ur heim, gamli madur, og spá fyrir bφrnum þínum, ad þau rati eigi í neina ógæfu framvegis; (180) en um þetta kann eg miklu betur ad spá, enn þú. Margir fuglar eru á flugi undir sólunni, og eru þó ekki allir spáfuglar. Hitt er held-ur, ad Odysseifur hefir týnst lángt úti londum; og væri bet-ur, ad þú hefdir týnst líka ásamt honum: mundir þú þá ekki fara med svo marga spádóma, (185) og ekki hleypa hinum reida Telemachus svo upp, í von um gjafir af honum handa hýski þínu. En eg segi þér þad fyrir satt, og mun þad ræt-ast: ef þú, sem fródur ert í mφrgum fornum fræðum, tal-ar uppi þér ýngri mann, og egnir hann til reidi, (190) þá mun honum fyrst sjálfum verda allt erfidara, enda fá alls eingu til leidar komid ad heldur; en á þig, gamli madur, munum vér leggja þau gjφld, ad þú munt ílla vid una, og sárann harm af bída. En umfram allt vil eg rádleggja Tele-machusi: (195) láti hann módur sína fara heim til fφdur hús-ar; munu þeir (frændur hennar) þá sjá fyrir rádi hennar, og leggja fram svo mikinn heimanmund, sem sæmilegt er ad fylgi kjærri dóttur; því eg hygg, ad synir Achæa muni eigi fyrr afláta því torsótta bónordi: med því vér hræd-umst alls aungvann, (200) og ekki Telemachus, þótt hann, skrafi mart; skeytum ekki heldur þeim spádómi, er þu fer med, karl; mun hann ekki rætast; muntu verda fyrir hann ad óvinsælli; munu eigurnar, sem fyrr, uppetnar verda, og alldrei jφfnudur fyrir koma, medan hún dregur Achæa (205) á rádahagnum vid sig; en vér munum enn bída alla daga, og þreyta kapp um frækleik vorn, og

ekki

ekki fara til annara kvenna, þeirra er hvorjum væri sómi í að eiga.

Sá vitri Telemachus svaraði honum: Evrymachus, og þér aðrir gøfugu biðlar! (210) ekki mun eg yður lengur þessa biðja, eða hér um tala; því nú vita það guðirnir og allir Achæar. En gjörið nú svo vel, og fáið mér gángfljótt skip og tuttugu menn, er fari með mér alla leið framm og aptur, því eg ætla til Spörtu og þeirrar sendnu Pylusborgar, að (215) að spyrjast fyrir um heimför føður míns, er lengi hefir á burtu verið, ef svo kann verða, að einhvørr dauðlegra manna kunni mér af að segja, eða eg heyri einhvørja raust frá Seifi, sú er helzt veitir mønnum vitneskju. Ef eg nú 'fregna føður minn lífs, og hans heim von, þá mun eg enn þreyja við árlángt, þó eg sé aðþreyttur. (220) En ef eg frétti hann látinn og liðinn úr heimi, þá mun eg halda heim aptur til míns føðurlands, og verpa haug eptir hann, og gjøra útför hans sæmilega, og gipta manni móður mína.

En sem hann hafði þetta mælt, settist hann niður. Þá stóð (225) Mentor upp, hann var vinur hins gøfuga Odysseifs, og hafði Odysseifur, áður hann fór í leiðángurinn, falið honum á hendur øll heimilis forráð, skyldi hann hlýða Øldúngnum, og hafa ørugga umsjón á øllu; hann var þeim velviljaður, talaði á þínginu og mælti:

Heyrid nú, Ithoku-menn, þau ord, er eg tala! (230) Einginn konúngur, sem á veldisſprota heldur, ſkyldi hér eptir vera velviljadur, eda vinſamleaur, eda blídur, né ſýna af sér nokkra sanngirni, heldur vera ſí-hardur og ó-sannsýnn: svrſi einginn man til þess ágæta Odysseifs, þeirra manna, er hann átti yfir ad ráda, og hverjum hann var blídur, sem fadir. (235) Ad vísu ann eg þess vel hinum vaſklegu bidlum, ad fremja ofríkisfull verk med vél-rædi, því þeir stofna sér siálfum í háſka, er þeir med of-ríki eyda búi Odysseifs, og ætla hans eigi heimvon fram-ar. En hinum ödrum lýdunum lái eg, ad þér sitjid allir (240) þegjandi, og leggid ekki ord til, ad halda í taumi kleinum bidlum, svo margir menn.

Leókritus Evenorsſon svaradi honum: meinlegur ertu, Mentor, og fjær viti þínu, er þú talar slíkt, og eggjar ad-ra á ad halda oss í taumi. Erfidt mun mönnum (245) veita, og þótt fleiri væri, ad deila vid oss um veitslu-höldin: því þó siálfur Odysseifur frá Ithöku kiæmi til, og vildi reka á dyr þá göfugu bidla, er halda veitslur í húsi hans, þá mundi kona hans, þó hún þreyi hann mjög, lítt verda fegin (250) heimkomu hans; mundi hann hreppa illann bana strax í stad, ef hann berdist vid ofurefli sér; hefir þú talad allilla. Nú skulu allir menn fara hédan, hverr heim til sín; en þeir Mentor og Halitherses, sem eru aldavinir födur hans, munu vera í tilbeina med Tele-machus um ferdina; (255) vonar mig, ad hann muni lengi mega sitja og spyrja frétta í Ithöku, því aldrei mun hann fá þessari ferd til leidar komid.

Ad því mæltu, brá hann þinginu skjótlega: fór þá hvørr til sinna heimkynna, en bidlarnir gengu til híbýla hins ágæta Odysseifs.

(260) Telemachus gékk þá burt, og ofan til strandar, þvodi hendur sínar í þeim gráa sæ, og bad til Athenu:

Heyr mig, þú gud, sem í gjær komst í hús mitt, og baudst mér ad fara á skipi yfir þad døkkva haf, til ad spyrjast fyrir um heimfør fødur míns, sem lengi hefir á burtu verid; (265) en Achæar draga þad allt fyrir mér, og einkum þeir øfstopafullu bidlar.

Svo taladi hann bidjandi, en Athena kom til hans, lík Mentori bædi í vexti og málfæri, og ávarpadi hann skjótum ordum:

(270) Ekki máttu, Telemachus, hér eptir vera dugalaus eda vanhygginn. Ef þú hefir til ad bera røskleik fødur þíns, slíkur sem hann var í framqvæmdum bædi til orda og verka, þá mun víst ferdin ekki verda þér til ónýtis eda afrekslaus. En sértu eigi sonur hans og Penelopu, (275) þá ætlast eg ekki til, ad þú munir fá því til vegar komid, sem þú hefir í hyggju; því fáir synir verda jafnir fødur sínum, fleiri verda sídur, en fáir fødurbetringar. En verdir þu framvegis hvørki framkvæmdarlaus né vanhygginn, og ef þú hefir ekki med øllu farid á mis vid vitsmuni Odysseifs, (280) þá er øll von á, ad þessi þín fyrirætlan muni takast. Nú skaltu eigi skeyta rádagérd eda fyrirætlan bidlanna, því þeir eru menn heimskir, skort-

ir þá bædi hyggindi og réttsýni, og ekki vita þeir, ad daudi og dymm feigd vofir þeim yfir hofdi, er þeir munu allir tónast á einu dægri. En þess skal nú ekki lengi ad bída, ad þú farir þá for, sem þú hefir í hyggju; því eg er sá vinur fødur þíns, ad eg mun búa þér til gángskjótt skip, og fylgjast med þér sjálfur. Far þú nú heim, og ver med bidlunum; útvega fararnesti og geym í ílátum, vínid í verplum, en byggmjølid, sem er sú kroptugasta fæda til manneldis í þéttum belgjum. En eg skal skjótt safna medal fólksins sjálfviljugum mønnum til fylgdar vid þig; en til eru á þeirri umflotnu Ithøku mørg skip, ný og gømul: skal eg velja þér af þeim, þad er best er, og þegar er vid høfum búid þad, skulum vid leggja í haf.

Svo kvad Athena, dóttir Zeifs; hafdi Telemachus nú ei lángar vidtafir, er hann heyrdi mál gydjunnar: hann skundadi til húss, sorgmæddur í hjarta. Fann hann þá gøfugu bidla heima, vóru þeir ad flá geitur og svída alisvín í gardinum. Antinóus gékk móti honum hlæandi, þreif fast um hønd hans, avarpadi hann og sagdi:

Þú stórordi ófyrirlátsami Telemachus, lát þér ekkért illt á hjarta liggja, hvørki ord né verk, heldur et og drekk med mér, eins og ádur; munu Achæar vera í útvegum fyrir þig um allt þetta, bædi skip og útvalda rædara, svo þú komist skjótt til þeirrar helgu Pylusborgar, til ad spyriast fyrir um þinn gøfuga fødur.

Sá vitri Telemachus svaradi honum: ekki sæ eg, Antinous, setid þegjandi ad veitslum eda skémt mér, í makindum med ydur offstopamønnunum. Eda nægir ydur þad ekki bidlunum, ad þér hér til hafid eydt mørgum gódum gripum fyrir mér, medan eg enn var barn ad aldri? En þar eg em nú ordinn roskinn og eg heyri ordrædur annara manna fyrir mér, og hugur vex mér innanbrjósts, þá mun eg reyna til, ad senda á hendur ydur illar feigdarnornir, hvert sem eg fer til Pylusborgar, edur eg verd hér í þessu landi. Fara mun eg, og verda farþegi, og skal ad vísu ekki eydast sú fer, sem eg hefi á ordi haft — því eg sæ hvørki skip né menn; mun ydur hafa þótt betra, ad svo væri.

Ad því mæltu sleit hann sig snøggt af Antinousi. En bidlarnir bjuggu til veitslu í stofunni: drógu þeir nú dár ad honum og veittu honum hnífilyrdi: þá sagdi svo einhverr af þeim offstopafullu úngmennum:

Víst ætlar Telemachus oss bana: mun hann annadhvørt ætla ad sækja lidsmenn til hinnar sendnu Pylusborgar eda til Spørtu — því nú er mikill ferdahugur á honum — eda hann ætlar til Efyru, þess frjóssama lands, til ad sækja þángad banvænt eitur, mun hann ætla ad koma því í skaptkérid, og bana oss øllum.

Þá sagdi annat af þeim offstopafullu úngmennum: hverr veit líka, ef hann fer sjóleidis, nema hann komist í hafvillur, og týnist fjærri vinum sínum, sem Odysseifur? Mun hann þá heldur enn ekki auka oss ómak! Því

vér munum skipta medal vor eigum hans, en húsunum munum vér láta módur hans halda, eda þann sem hennar fær.

Svo tøludu þeir, en hann gékk ofan í hann háfa vída geymslusal fødur síns, þvar gull og eir lá í hrúgum, klædi í kistum, og gnægd af ilmandi vidsmjøri; (340) þar stódu og tunnur med gamalt, ljúffengt vín, var þad ágætur drykkur og sterkur, þeim var radad vid veggina hvørri hjá annari, ef Odysseifur kynni einhvørn tíma heim ad koma, ad afstødnum mørgum þrautum; fyrir salnum var læst hurd, þéttfeld og (345) tvívængjud; þar var inni nætur og daga rádakonan Evrykleia, dóttir Ops Písenorssonar, og gætti alls med mikilli forsjá. Kalladi Telemachus hana til geymslusalsins, og sagdi til hennar:

„Gjør svo vel, fóstra, og ausé fyrir mig á verpla (350) gott vín, sem ljúffengast er, næst því, sem þú geymir handa þeim ógæfusama manni, þeim Zeif-borna Odysseifi, ef hann einhvørntíma kann ad koma, sloppinn undan daudanum og feigdarøydjunum; þú skalt fylla tólf verpla, og láta lok vera yfir hvørjum. Sídan skaltu steypa bygg-mjøli í þéttsaumada belgi; (355) þad skal vera tuttugu mælirar af møludu byggkorni. Einginn má þetta vita, nema þú ein; skal allt þetta vera til reidu, því eg mun vitja þess í kvøld, þegar módir mín er gengin upp í loptsalinn og ætlar til hvílu: ætla eg mér ad fara til Spørtu og hinnar sendnu Pylusborgar, (360) til ad spyrjast fyrir um heimfør míns kjæra fødurs.

Svo mælti hann: en sú góða fóstra grét, og talaði kveinandi til hans skjótum orðum:

Hví hefir slíkt komið þér í hug, elsku-barn? hvert viltu fara úti víða veröldu, (365) einka sonur og óska-barn? en hann er dáinn fjærri fósturjörðu sinni, sá Zeif-borni Odysseifur, í ókunnu landi. Munu þeir, strax sem þú fer, búa þér vélar, að þú verðir drepinn með svikum, en skipta með sér öllu, sem hér er. Sit þú heldur kyrr á sjálfs þíns eignum! þig dregur engi nauðsyn til, (370) að hætta þér út í volk og hafvillur á því ófrjóssama hafi.

Só vitri Telemachus svaraði henni aptur: vertú ó-hrædd, fóstra mín, því ekki er þetta ráð upp tekið án vilja guðs. En sver þú mér, að segja ei móður minni frá þessu, fyrr en liðnir eru ellefu eða tólf dagar, (375) eða hún saknar mín sjálf og fréttir burtför mína, svo hún eigi slái höndum sitt fríða brjóst grátandi.

Svo mælti hann, en sú gamla kona sór dýrann eið við guðina. En er hún hafði svarið og unnið eiðinn, jós hún strax víninu á verplana, (380) og helti byggmjölinu í þá þéttsaumuðu belgi. Gékk Telemachus þá til stofu, og var með biðlunum.

Nú fann sú bláeyga gyðja Athena upp enn annað ráð: hún fór um alla borgina í líki Telemachusís, gékk til hvers manns og talaði til hans, (385) bað þá safnast

saman um kvöldið niðri hjá því fljóta skipi; síðan bað hún hinn fræga Noemon Froníusson um gángfljótt skip, og lofaði hann því fúslega.

Nú sem sól rann í ægi, og skugga brá yfir alla vega, þá setti hún hið fljóta skip fram til sjófar, lét hún fylgja því (390) allann skipreiða, þann er hin velþiljuðu skip eiga að hafa; síðan flutti hún skipið út í hafnarmynnið; safnaðust þá þángað þeir hraustu félagar, og upphvatti gyðjan sérhvörn þeirra.

Enn tók sú bláeyga gyðja Athena annað til bragðs: hún gékk til húsa þess ágæta Odysseifs, (395) þar brá hún sætum svefni yfir biðlana, gérði þá reikandi við drykkinn, og sló bikarana úr höndum þeim; þeir skunduðu þá út í borgina til svefns, og sátu nú eigi lengi, eptir það að svefn tók til að falla á augu þeim, en sú bláeyga Athena talaði til Telemachus's, (400) og kallaði hann út úr þeim fagursettu húsum, líkist hún þá Mentori í vexti og málfæri.

Telemachus, nú sitja þeir fagurbrynhöfðu félagar við árar, og bíða þess, að þú farir á stað. Förum þá og dveljum eigi lengi ferina.

(405) Að því mæltu gékk Pallas Athena á undan í skyndi, en hann gékk á eptir gyðjunni. En sem þeir komu niður til sjáfar, þar er skipið var, fundu þau þá hárprúða

félaga á ströndinni. Sá sterki Telemachus taladi þá til þeirra:

(410) Komid, vinir, og sækium fararnestid; er þad nú allt til reidu heima; hefir módir mín ekkert frétt, og engin af þernunum, nema ein, veit þessa rádagérd.

Þá hann hafdi sagt þetta, gékk hann á undan þeim, en beir fylgdu honum; báru þeir nú allt med sér, og settu nidur á þad velþiljada. skip, (415) eins og Odysseifs kjæri sonur sagdi fyrir. Gékk Telemachus þá á skip, en Athena fór fyrir og settist nidur í apturstafninn, og Telemachus hjá henni. En þeir leystu landfestarnar, stigu á skip, og settust á þópturnar. (420) Sú bláeyga Athena sendi þeim hagstædann byr, blásandi vestanvind, á því dynjanda døkkva hafi. Þá bad Telemachus skipverjana taka til seglreidans en þeir gérdu, sem hann baud, reistu upp siglutré af furu, og settu þad nidur í þá holu siglu-þóptu (425) og bundu þad med støgum fram og aptur, drógu svo upp þad hvíta segl med velsléttudum ólum; blés þá vindurinn í midt seglid, en sú døkkva bylgja glumdi hátt vid stefnid, þá skipid gékk, en þad hljóp eptir øldunni, og fór leidar sinnar. (430) En sem þeir høfdu fest øll reip á því døkkva gángfljóta skipi, settu þeir fram skaptkér barmafull af víni, og offrudu þeim eilífu ódaudlegu gudum drykkjar-offri, en einkum þeirri bláeygu dóttur Seifs. En skipid fór leidar sinnar alla nóttina og morguninn.

Ad afloknni Embættis-gjörd í Bessastada kirkju, þann 1ta Febr. 1829, verdur af Skólanum Hátíd haldin í minníngu Fædíngar-dags vors allranádugasta Konúngs, **Fridriks Sjötta**; bidjum vér því, med þessu Bods-riti, audmjúklega og ástsamlega Skólans **Forstjóra**, og adra Skóla-vini og Velunnara, ad þeir vilji ásamt med oss þessa Hátíd halda, Gudi og Konúnginum til verdugs lofs og heidurs.

**Bessastödum**, þ. 2ann Jan. 1829.

